# HÚSRÆÐA

yfir

# Hallgrím prófast Thorlacius

## að Hrafnagili,

haldin af

aðstoðarpresti hans **Svb. Hallgrimssyni**

28. októbermánaðar 1859.

---




Akureyri 1860.

Prentuð í prentsmiðju Norður- og Austurumdæmisins, hjá
Helga Helgasyni.

Öldungi presta í Eyjafirði

# Einari presti Thorlacius

að Saurbæ

með þakklæti og virðingu

tileinkað.

Höfundurinn.

# Húskveðja

yfir prófasti sjera **Hallgrími** sáluga **Thorlacius,**

28. októbermánaðar 1859.

---

Heyrðu nú bæn vora í Jesú nafni, vor guð og góði faðir þú, sem af þinni elsku hefir kallað oss til lífsins, og leiðir oss svo föðurlega þjer við hönd fram um lífsins veg, hjálpar oss og styrkir í sjerhverri lífsins baráttu — æ, hjálpaðu oss og styrktu líka þá — „lífsins skamtur er á enda, ei vill hjólið lengur vendast, og vjer spennumst oki frá“! — auðsýndu oss þá þína föðurlegu miskunnsemi, með því að láta allar vorar syndir vera huldar fyrir þínu augliti, svo þær ekki vitni í móti oss; kasta þeim burt frá þjer í hafsins djúp og veit oss með sælu og sáluhjálplegu andláti inn að ganga í þitt eilífa dýrðarríki. Já himneski faðir! „Unn þú oss að eyddum dögum andlits þíns vjer sjáum dýrð, eyðist synd, angist og klögun ásamt vorum hjúp í jörð!“ Amen í Jesú nafni amen.

---

Bæði sá ársins tími, sem vjer nú stöndum á, og sá tímans atburður, sem vjer eigum hjer að gegna, minnir mig á þessi orð, sem lesa má hjá spámanninum (Es. 40. kap): „Allt hold er sem gras, og allt þess ágæti sem akurblóm. Grasið visnar, blómið fölnar, þegar andi drottins blæs á það. Í sannleika, menn-

irnir eru sem gras". Sumarið er liðið og vetur genginn í garð. Jörðin hefir afklæðzt hinu græna skrautinu. Þar sem óteljandi grös og jurtir skreyttu í sumarblíðunni tún og engjar, þar — „skekur nú kulið kvistu bersnauða, og stráin kveina fölnuð mót dauða!" Hvílíkar sönnur færir því þessi ársins tími á orð spámannsins: Grasið visnar, blómið fölnar, þegar andi drottins blæs á það! Og þetta, sem haustið sýnir og sannar svo berlega fyrir oss, hvílíka hugvekju gæti það eitt saman gefið oss um vorn eigin forgengilegleika! Visnum grassins, fölleiki blómanna — hversu hlýtur þetta að vekja oss huga um vorn eigin dauða og rotnun! Getum vjer virt fyrir oss alla þá umbreytingu, sem hausttíminn hefir í för með sjer, án þess að hugsa til sjálfra vor og heimfæra upp á líf vort það sem vjer sjáum koma fram á grösum jarðarinnar? Getum vjer þá varizt að taka undir með spámanninum og segja: Í sannleika mennirnir eru sem gras!

En þetta sem tíminn og tímans umbreytingar kenna oss, það kennir oss líka lífið og lífsins atburðir. Vjer þurfum nú ekki að ganga út í ríki náttúrunnar, þurfum ekki að horfa yfir tún og engjar, hóla og dali, til að læra að sjá það, að mennirnir eru sem gras. Nei, hjer innan þessara húsveggja sjáum vjer berlega þenna sannleika. Þegar vjer horfum á þessa líkkistu, þegar vjer hugsum til þess manns, sem í henni hvílir, og virðum fyrir oss

líf hans, hljóma oss þá ekki í eyrum skírt og skært þessi orðin: Allt hold er sem gras og allt þess ágæti sem akurblóm? Eða hvenær stóðuð þjer að útför framliðins manns, er betur og berlegar en þessi vitnaði fyrir yður: Í sannleika mennirnir eru sem gras? —

Allt hold, segir spámaðurinn, er sem gras, og allt þess ágæti sem akurblóm. Það er munur á því, hvernig mennirnir birtast á skeiði lífsins; sumir koma þar fram svo vel og vandlega útbúnir af náttúrunni; þeir hafa margt til síns ágætis og eiga að hrósa miklu atgjörfi bæði til sálar og líkama. Aptur koma aðrir fram, sem náttúran sýnist eins og hafa sparað við sínar góðu gjafir; þeir eiga hvorki að hrósa andlegu fjöri, nje líkamlegum hraustleika; þeir eru í samanburði við hina, sem betur eru útbúnir, andlega volaðir og líkamlega vesælir. Vjer tökum nú ekki til þess, þó að þeir mennirnir, sem svona eru úr garði gjörðir, sem eru eins og strá fyrir straumi, þó að þeir visni eins og grasið og fölni eins og blómið. En að allt hold skuli vera sem grasið, og allt þess ágæti sem akurblóm, að einnig þeir mennirnir, sem virðast vera hvað bezt útbúnir bæði til sálar og líkama, sem mega eins og heita meistarasmíði náttúrunnar, að einnig þeir skuli visna og fölna eins og akursins liljugrös, það þykir oss heldur tiltökumál. Vjer tökum til þess, segi jeg, angrumst af því, vjer hryggjumst af þessum kjörum mannlegs lífs. Daprir í huga lítum vjer á þann, sem hjer liggur

nú visnaður og fölnaður, og segjum: Í sannleika, mennirnir — hvað hraustir sem eru — eru sem gras! Skoðið akursins liljugrös! hvernig þau vaxa, blómgast, visna og falla út af. Og skoðið líka líf hins framliðna, hvernig hann óx og þroskaðist, hvílíkur hann var í blóma lífsins, hvernig hann fölnaði og hversu hann er nú fallinn út af! Þjer sem þekktuð hann svo að segja á öllum köflum æfi hans, þjer getið skoðað þetta og sett yður það skírlega fyrir sjónir. Jeg, sem ekki lærði að þekkja hann fyr en á hans síðustu árum, fyr en hann var farinn að visna af elli og orðinn fölur af ellinnar annmörkum, jeg get ekki ímyndað mjer líf hans eins og það var; því er miður, jeg get ekki á þessum hans greptrunardegi brugðið á lopt fyrir yður lýsingu lífs hans honum til verðugrar minningar. Jeg get hjer ekki látið eigin sjón og reynslu stíla orð mín; en mjer er það samt ljúft að tala það sem jeg hefi heyrt; mjer er það sönn gleði, nú að skilnaði við hinn framliðna, að minnast hans með sannindum eptir sögusögn trúverðugra manna.

Prófastur sjera Hallgrímur sálugi Thorlacius var einn af þeim mönnum, sem með sanni mátti segja um, að guðleg forsjón hefði eigi sparað við sínar góðu og fullkomnu gjafir. Hún hafði veitt honum mikla hæfilegleika til sálar og líkama, svo að hann var og þótti afbragðsmaður á sinni tíð. Sálargáfurnar voru svo liðugar, að hann gat snúið þeim að

öllum menntum, og svo skarpar, að allar menntir gátu verið honum í augum uppi. Honum varð sýnt um sjerhvað sem hann lagði nokkra stund á, því náttúran og námið hjálpuðust að því, að gjöra hann þar vel færan. Og eins og andinn var liðugur, eins var líkaminn lipur. Allur framgangur var prúður, látæðið kurteist, höndin fim og hög. Þar sem hann kom fram, þar leyndi sjer ekki snilldin, og það því síður sem bæði andlegt og líkamlegt fjör var lífið og sálin í allri athöfn. Það mátti segja um sjera Hallgrím sáluga, að þar bjó liðug og fjörug sál í liprum og fjörugum líkama. Var það nú að undra, þó maðurinn, svona vel útbúinn af hendi náttúrunnar, þækti snillingur í stöðu sinni? Var það að undra, þó að allir, sem við hann kynntust, veitti honum virðingu og elsku? Nei, þetta var eðlilegt, og það því heldur sem lundin var glaðvær, hjartað blítt, viðmótið vinsamlegt. Af þeim 45 árum, sem hinn framliðni þjónaði sem prestur í þessu kalli, þá mun það mega segja, að hann yfir 30 ár þjónaði því með þessum sínum mannkostum. Í þau 30 árin naut hann sín — krapta sinna og mannkosta, og í þau 30 árin nutu hans aðrir — nutu góðs af kröptum hans og mannkostum.

En þá fóru þegar að sjást merki til þess, að maðurinn er sem grasið, er visnar, og sem akursins blóm, er fölnar. Það tók nú að kvölda og skyggja að í lífi hans; hann fór að draga sig í hlje frá störfum stöðu sinnar og frá við-

skiptum við heiminn. Hann, sem verið hafði hinn mesti fjörmaður og gleðimaður, gjörðist nú fálátur og fjöri firrtur; hin blíða lundin kólnaði og viðmótið þýða stirðnaði. Það hafa sagt þeir menn, sem þekktu hinn framliðna framan af æfi hans og fram eptir henni, að enginn, sem sá hann nú, gæti ímyndað sjer, hvílíkur maður hann hefði verið. En þegar svona var komið, lærði jeg fyrst að þekkja hann; og eins og jeg þóttist sjá af því, sem eptir var af honum, að hann hefði verið blóm af manni, svo sannfærðist jeg líka um það, því lengur sem jeg kynntist honum, að allt hold er sem gras, og allur þess blómi sem akurblóm. Hann visnaði og fölnaði æ meir og meir, unz gjörsamlega slokknaði hið veika og dapra lífsins ljós.

Það þarf nú ekki að efa það, að annmarkar hinnar aðsígandi elli ollu þeirri breytingu, sem var svo augsýnileg bæði á hinum ytra og innra manni hins framliðna; en þessari breytingu mun líka með fram hafa flýtt og ollað annað, og það var þetta: Sjera Hallgrímur sálugi var meiri **atgjörfis- en gæfumaður**, eins og hann líka mun hafa verið fjörugri til að ganga á hólm við freistingar heimsins, en fastur fyrir í baráttunni við þær. Þetta hvorttveggja, eins og vjer þekktum það, hlaut að hafa haft særandi áhrif á hans innra mann; enda gjörði það líka líf hans, þegar þá þar við bættist lasleiki ellinnar, næsta aumkvunarvert! Síðustu æfiár hans voru gleðilaus, og það mátti með sanni segja: Honum var horfin

öll ánægja af lífinu. Vildi einhver vekja huga hans gleði með því að minnast á hans fyrra líf og hluti, sem þá höfðu gjörzt, þá get jeg vitnað það, að honum kom optast tár í auga; svona var hjartað orðið viðkvæmt, svona fann það sárt til þeirrar breytingar, sem lífið og lífsins atburðir höfðu gjört.

En þjer, vinir hins framliðna, sem fylgið honum hjer til grafar af gamalli tryggð og virðingu, jeg skal ekki frekar særa yðar hjartans tilfinningu með því að lýsa ellidögum yðar sofnaða vinar; yður voru þeir eins kunnugir og mjer, og mjer má nægja að segja: Eins og þjer báruð virðingu fyrir honum, meðan guð gaf honum heilsu og krapta til að þjóna í köllun hans á meðal yðar, svo báruð þjer og meðaumkvun með honum, þegar byrði ellinnar lagðist á hann, og þjer vissuð, hversu þungbær hún varð honum. Vjer skulum þá heldur minnast á það, sem mest má gleðja oss alla, á þau umskipti, sem orðin eru á högum vors sofnaða vinar.

Það eru ekki 2 mánuðir síðan að þjer sáuð hinn framliðna, er hann með veikum mætti fylgdi til grafar henni, sem guð gaf honum á giptingardegi til að bera með honum hita og þunga dagsins. Þessi hans sorgargangur virðist hafa haft mikil áhrif á hans viðkvæma og ellimóða hjarta. Hann sá og fann, að nú var hann sviptur þeirri hjálp af mannlegri hálfu, sem hann gat og vildi byggja upp á; enda lagðist hann þá fyrir í rekkju sína, eins og

honum sagði hugur um, að hjer ætti hann nú, og hjer væri ekki nú — lengi — lausnar að bíða. Og jeg má segja það, eða svo virtist mjer að minnsta kosti, sem hann í þessari eptirbið dauðans — því banalega var það ekki — hefði rósamara og glaðara bragð en jeg þóttist áður hafa sjeð á honum. Og jeg spyr: Hvað mun nú hafa getað friðað og glatt hans gleðifirrta hjarta? Sannarlega enginn hlutur í þessum heimi, því honum var fyrir löngu horfin öll ánægja af honum. Ó, jeg veit það: Í þessari eptirbið dauðans hefir hugur hans verið hjá himnanna guði, hefir hann fastar enn nokkurn tíma knúið á dyr guðlegrar miskunnsemi, að hann mætti losast úr hinni hrörlegu líkamans tjaldbúð og frelsast til guðs himneska ríkis. Og faðir miskunnsemdanna, sem heyrir bænir barna sinna og er fús að hugsvala þeim, sem harmþrungnir knýja á hans náðardyr — hefir sent huggun og frið í sálu hans. Þannig þá, huggaður af anda guðlegs friðar, beið hann rósamur sinnar síðustu stundar; og hann, sem lifað hafði í elli sinni svo margar stundir stríðsamar, lifði hinar síðustu stríðminni, og hina síðustu allra, andlátsstundina, fjekk hann stríðlausa — bæði fljóta og hæga. Þegar jeg hugsa um þetta og virði fyrir mjer sumra manna dóma um hinn framliðna, þá kemur mjer til hugar það sem sagði einn hinna vitrustu manna og merkustu rithöfunda: „Mannsins síðustu stundu, sagði hann, er að guðs ráði ætlað og geymt að gæta sannleikans; sú stund er falslaus og

svíkst ekki um að gegna trúlega skyldu sinni.“ Og guði sje þá lof fyrir það, að hin rósama andlátsstund hins framliðna vitnaði um það, að drottinn ljet hjer sinn þjón í friði fara!

Hvílíkt fagnaðarefni er þá hjer orðið fyrir alla þá, sem unnu hinum framliðna, og tóku hlutdeild í kjörum hans á hans síðustu æfiárum! Vitnið þjer það, vinir hans og fornkunningjar, hafið þjer prísað margan sælli fyrir hvíldina heldur en þann, sem hjer hefir nú hvíldina fengið? Hversu opt voruð þjer búnir að furða yður á því, hve lengi gæti treinzt hans veika og hrörlega líf, og hversu opt höfðuð þjer óskað þess, að guði mætti þóknast að leysa hann úr þessum dauðlegleikans líkama? Sjáið þá, guð hefir virzt að heyra bæn yðar og bænheyra hana á þann hátt, sem þjer höfðuð varla sjálfir við búizt. Þjer hugsuðuð þó að frjetta það, að nú væri hann lagztur sína banalegu, nú stæði yfir hans dauðastríð. En hann, sem gjörir allt betur, en vjer höfum vit á um að biðja, hann ljet hans banalegu ekki vera annað en rósama eptirbið dauðans, og hans dauðastríð ekki annað, en sigursælt og friðsamlegt andlát.

Ó, hversu ber oss þá öllum að lofa og vegsama guð fyrir lausn hans, að þakka honum af hjarta fyrir það, að hann ljet þenna sinn þjón og vorn vin í þvílíkum friði burtu fara! Já, vjer prísum hjer þína ráðstöfun, himneski faðir! Þú ljezt hin þráðu umskipt-

in koma nú við enda umliðins sumars, og áður en þessi vetur gekk í garð, allt eins og þú vildir benda oss til þess, að enginn vetur, en eilíft sumar skyldi nú taka við fyrir honum, sem þú hafðir til þín kallað; þú ljezt hann sofna út af með akursins liljugrösum, allt eins og þú vildir minna oss á það, að eins og þau falla út af á haustin til þess að lifna við aptur á vorin, svo skyldi hann á þessu hausti hníga til jarðar, til þess að rísa upp aptur á vori eilífðarinnar. Ó, lofuð sje nú þín gæðska, lifandi guð! sem gjört hefir allt hold eins og grasið, sem visnar til þess að vaxa á ný! Lofaður sjertu, guð drottinn! sem kallað hefir oss alla til lifandi vonar, og sem nú ert búinn að kalla þenna þinn þjón til arfleifðar hans á himnum, sem eilíf er og aldrei fölnar!

Í þessari gleðilegu trú og von kveðjum vjer allir hinn framliðna, fagnandi af lausn hans úr þessu líkamans lífi og frelsi hans til guðs himneska ríkis. Og jeg læt hann kveðja mig og yður alla með því að segja: Sjáið hjer, að maðurinn er sem gras, og allt hans ágæti sem akurblóm! Þjer hafið, segir hann, skoðað mig sem grasið, er visnar, og sem blómið, er fölnar. Nú — svo lærið þá hjá minni líkkistu hyggindi af þessu fyrir yðar eigið líf! Lærið hjer að sjá það upp yfir mínum nábeð, að einnig þjer eruð sem grasið, er í dag stendur á akrinum, en á morgun verður kastað í ofn! Horfið þá á akursins liljugrös, hvernig

þau vaxa og blómgast og prýða þann blett, sem þau standa á! Vaxið þjer eins í öllu góðu og guði þóknanlegu, skrýðist þjer blómskrauti allra kristilegra dyggða, svo að eptir yður sjáist fagur lífsferill, fullur af góðum verkum guði til lofs og dýrðar! Og frestið ekki að fullnægja þessari yðar skyldu, að vegsama guð með lífi yðar og líferni! Því sjáið, hvernig grösin visna og fölna! Og svona visnið þjer líka, þegar árin koma, og ellin færist yfir yður; svona fölnið þjer, þegar andi dauðans blæs á yðar lífsins blóm. Þá kemur þessi nóttin, sem yfir mig er komin, nóttin sú, er þjer ekki fáið starfað. Svo vinnið þá meðan dagur endist, munandi eptir því, að allt hold er sem grasið, er visnar, og lífið sjálft eins og gufa, sem sjest um stund en hverfur síðan. Guð hjálpi svo yður öllum til að læra að telja yðar daga, að þjer getið lifað skynsamlega og dáið sáluhjálplega! Amen.

## Eptirmáli.

Að húsræða þessi birtist á prenti, er að kenna dómi þeim, sem merkispresturinn sjera Einar Thorlacius hefir lagt á mig fyrir hana í 1—2 bl. Norðra 31. jan. 1860, þar sem hann tekur fram orð og greinar á stangli, og þykist geta dregið út úr þeim andvaraleysis kenningu gegn guðsorði og kærleiksleysi gegn kristindómsins boði, auk skorts á velsæmi í því að minnast ekki neinna mannkosta hins framliðna, og á virðingu fyrir honum sem yfirmanni mínum og samþjóni. Ræðan verður nú að forsvara sig, eða fella sig sjálf; hún verður að vitna um það fyrir alþýðu, hvort jeg á svona harðan dóm skilið fyrir hana, eins og hún líka skal sýna, hvor okkar talar af kærleiksfyllri anda, sjera E. Th. í Norðra um mig, eða jeg um sjera Hallgrím sáluga í ræðunni. Þess vil jeg einungis geta, að þau orð sem sjera E. Th. leyfir sjer að kalla andvaraleysis kenningu, og hann eigi veit hvar skrifuð standa: „Mannins síðustu stundu er það ætlað og geymt, að guðs ráði, að gæta sannleikans“ o. s. frv., þau eru tekin úr alþekktu ensku kvæði, sem heitir Night Thoughts (Nætur hugsanir) eptir prestinn og skáldið Edward Young († 1765) Og það munu margir, þó ólærðir sje, svo gáfaðir og góðgjarnir að sjá, að þessi Youngs kenning lýsir ekki andvaraleysi, heldur djúpri og heilagri hugsun, er hlýtur að vekja andvara jafnvel hinum andvaralausa.

Munkaþverá, 10. febrúar 1860.

Svb. Hallgrímsson.

